# Íslendingar í Vatnabygðum



*Þó þú lang-förull legðir*
*sérhvert land undir fót,*
*bera hugur og hjarta*
*samt þíns heima-lands mót.*

St. G. St.

# Íslendingar í Vatnabygðum

---

*Frumbúar bygðarinnar*

---

*MANNTAL*
*Íslendinga í austurparti Saskatchewan-fylkis*
*árið 1919.*

*Samið hefir J. H. LINDAL.*



*WINNIPEG*
*Prentsmiðja Olafs S. Thorgeirssonar*
*1920*



# Íslendingar í Vatnabygðum.

---

*Á*rið 1892, var eitt hið mesta ofþurka ár, sem komið hefir yfir þessi fylki síðan hvítt fólk fór fyrst að reisa bygðir sínar í þeim.

*Á*rin 1886—8 var fyrst stofnað til íslenzkrar bygðar í hinni svo nefndu Þingvallanýlendu. Var Helgi Jónsson fyrsti frumkvöðull að þeirri nýlendustofnun. Liggur hún í norður, út frá bænum Churchbridge, sem er járnbrautarstöð, hér um bil 50 mílur austur frá Yorkton.

Á þessum árum var járnbraut þessi kölluð, Manitoba norðvesturjárnbrautin. Var hún lögð út frá bænum Portage la Prairie, ssm er á C. P. R. línu. Komst járnbraut þessi á nokkrum árum fyr til Yorkton í Saskatchewanfylki. Upphaflega mun þetta Manitoba norðvestur járnbrautarfélag, hafa haft í áformi að byggja braut til Prince Albert í norðurhluta Saskatchewan fylkis. Að líkindum vegna fjárskorts gat félag þetta ekki haldið þessari brautarbygg-ingu áfram.

Voru þá hörð ár, bæði af ofþurkum og sérstaklega af sumarfrostum hér í norðvestur landinu. Voru

því litlar afurðir búa fyrir téð járnbrautarfélag að flytja. Var þá verð á kvikfénaði mjög lágt, til dæmis $25 fyrir þriggja ára uxa, og kýr með líku verði, 12—15 cent fyrir pund af sméri, og fleira eftir þessu.

Hið fyrtalda ár 1892, munu hafa verið yfir hundrað íslenzkar fjölskyldur búsettar í Þingvalla- og Lögbergs nýlendum.

Þetta vor æddi sléttueldur yfir Þingvallabygðina í maímánuði. Og þar sem aldrei kom regn það vor, heldur var alt af sólskin um daga en frost um nætur, t. d. voru fleiri nætur í júní, sem var frost, en hinar, sem voru með öllu frostlausar. Leiddi þetta til þess, að sviðnar grasrætur gátu ekki náð fullu lífi og þroska. Útlitið var hið ískyggilegasta.

Í júnímánuði fóru hinir efnuðustu og framkvæmdarsömustu bændur i Þingvalla bygðinni að ræða framtíðarmál bygðarinnar. Kom nokkrum saman um, að leita norðvestur frá Yorkton inn á óbygt svæði, að heyi og búfjárhögum .Þessir menn munu hafa farið í hina fyrstu landaleit: Kristján Helgason, Ingimundur Eiríksson og Sigurður Eyjólfsson. Varð árangur af ferð þessari sá, að nokkrir bændur úr Þingvalla bygðinni fluttu sama sumar vestur til „White-Sand river", sem er um 40 mílur norðvestur frá Yorkton. Nokkrir munu hafa farið eins langt það sumar, eins og til Fishing Lake, sem er nokkrum mílum vestar. Þessir hér taldir bændur munu hafa flutt vestur þetta hið sama sumar: Kristján Helgason, Ingimundur Eiríksson, Bjarni Jasonsson, Gísli Bíldfell, Stefán Ólafsson,

Sveinn Haldórsson, Þorsteinn Þorsteinsson og Ketill Þorsteinsson.

Alla þessa leið, um 90 mílur, keyrðu konur í flutningsvögnum, og beittu uxum fyrir. Að vísu hefði fólk þetta getað flutzt með járnbrautinni til Yorkton. En þá var skortur á skotsilfri, og fanst því nauðsyn að spara peningaútgjöld.

Næsta ár flutti fleira fólk úr Þingvalla bygðinni þangað vestur, sem hinir fyr töldu höfðu sezt að.

Einu eða tveimur árum síðar fundu þessir bændur svæði það, sem heitir Foam Lake. Á þeim tíma sáust lítil merki þess, að hér væri um stöðuvatn að ræða, eins og nafnið benti á. Að vísu var hér samsafn af vatni, sem líktist meir löngum, hálf grasgrónum kíl. En mennirnir fundu hér feikna stóran engjateig, með svo miklu grasmagni, að þeir höfðu aldrei séð neitt slíkt. Eftir nokkur ár lagðist þessi mikli engjateigur undir vatn. og hefir legið þannig síðan.

Má af þessu sjá, að óvanalega miklar þurkatíðir hafa gengið yfir svæði þetta, áður Íslendingar fluttu þangað, Eins og áður er minst á, treystist ekki járnbrautarfélagið að halda brautarbyggingunni áfram frá Yorkton. Enda var þá enginn keppinautur að íta undir félagið, svo það hirti um aðra staði meira. C.P.R. félagið hafði þá tekið brautina inn til sín.

Var nú um 60—70 mílur frá Íslendingabygðinni við Foam Lake til Yorkton, sem þá var næsta kauptún. Hafa kunnugir menn sagt mér, að gjarnast var farið að eins tvisvar á ári þessar verzlunarferðir.

Um síðastliðin aldamót munu 12 íslenzkar fjölskyldur hafa verið búsettar þar, og í viðbót við fyrrum nefnda menn fluttu þangað: Tómas Pálsson, Guðbrandur Narfason, Jón Thorlacíus, Bjarni Þórðarson, og Bernharður Jónsson. Ketill Þorsteinsson hafði þá flutt í burt.

Árið 1902 hófst C. N. R. brautarfélagið til framkvæmda og framlengdi brautarstæði frá Dauphin og Gilbert Plains héraðinu, vestur í millum fjallanna „Riding Mountain" og „Duck Mountain". Næsta ár var brautarstæðið framlengt og komst vestur til White Sand River, þar sem bærinn Kenora stendur nú við ána.

Fór nú C.P.R. félagið að sjá, að hér var kominn keppinautur að leggja undir heimsmenninguna alt hið mikla og frjóvsama landsvæði vestur til Edmonton í Alberta fylki, um 700 mílur. Bygði nú C.P.R. félagið þetta haust, 1903, járnbrautarpart, 40 mílur. Á þeim brautarenda kom upp bærinn Sheho. Nú lögðust framkvæmdir félagsins í dvala á þessu svæði um 2—3 ár. 1906—8 var aftur unnið að brautarbyggingu þessari vestur í gegnum Vatnabygðirnar.

Eins og áður er minst á, voru Íslendingar við Foam Lake einu innbúar á þessu svæði. Ásamt nokkrum hóp af enskumælandi fólki, sem hafði haldist við um nokkur ár og bygt þorp, sem það kallaði Sheho. Var járnbrautarbærinn nefndur eftir því þorpi. Hófst nú hinn mesti innflutningur af allra þjóða fólki, inn á þetta landsvæði, sem var kallað

Vatnabygðir. — Eru 4 smá vötn á svæði þessu, sem mun hafa gefið tilefni til þessa nafns. Landsvæði þetta mun hafa bygst á 5 árum, eða frá 1904 til 1909.

Í septembermánuði 1908, var mikill hluti af oddasectíónum gefinn upp af stjórniuni, til heimilisréttar afnota fyrir almenning, með sömu skilmálum og sectíónir með jöfnum tölum. Mestur hluti Íslendinga, sem hingað fluttu, settust að í fjórum townships röðunum, nefnilega 30, 31, 32 og 33. Að eins á pörtum tekur bygð þeirra suður í township 30 og norður í township 33. Meðfylgjandi landabréf sýnir svæði það, sem Íslendingar búa helzt á.





## *HVAÐ MARGIR ÍSLENDINGAR ERU Í VATNABYGÐUNUM?*

Eins og fólki hér er kunnugt, fór eg um bygðirnar síðastliðið sumar, til að fá yfirlit yfir tölu Íslendinga hér í bygðunum. Var áform mitt í fyrstu, samkvæmt beiðni frá Þjóðræknisfélagsstjórninni, að taka þetta íslenzka manntal nokkurnvegin fullkomið. En síðar í sumar varð eg áskynja um, að ekkert var gjört í öðrum íslenzkum bygðum í þessa átt, sem þó var ráðgert í fyrstu. Lét eg þá staðar numið með sundurliðað manntal, hélt mig að eins eftir það við tölu á fjölskyldum. Hér er því ekki um neina sundurliðaða nafnaskrá að ræða.

Tala á íslenzkum fjölskyldum í Vatnabygðunum er á þessa leið:

| | | | |
|---|---|---|---|
| I. | Foam Lake og Quill Plains - | 45 | fjölsk. |
| II. | Leslie - - - - - | 38 | " |
| III. | Kristnes og Quill Plains - - | 50 | " |
| IV. | Hólar - - - - - | 27 | " |
| V. | Elfros P. O. District - - | 37 | " |
| VI. | Mozart " " - - - | 38 | " |
| VII. | *Wynyard-bær* - - - | 64 | " |
| VIII. | Wynyard P. O. District - - | 116 | " |
| IX. | Kandahar og Dafoe - - | 55 | " |
| | Alls | 470 | fjölsk. |

Eins og eg gat um hér að framan, var eg búinn að semja sundurliðaða skýrslu yfir helming af bygðunum, þegar eg hætti því eftir áður sögðu. En samkvæmt þeirri tölu, sem kom fram í þeim bygðarhlutum, sem sundurliðuð skýrsla komst á, varð meðaltal á hverja fjölskyldu 5⅔ maður. — Hæst 6⅛ maður, lægst 5⅓ maður.

470 fjölskyldur X 5⅔ = 2663 menn.

Þess utan hefi eg náð tölu á íslenzkum fjölskyldum í Þingvalla og Lögbergs bygðum, ásamt smáhópum þar í nágrenni.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Í Þingvalla og Lögbergs bygðum : | | fjölskyldur | 65 |
| Bradenbury | - - - | " | 9 |
| Yarbo og Gerald | - - | " | 9 |
| Tantallon | - - - | " | 13 |
| Á öðrum stöðum | - - | " | 4 |
| | | Alls fjölskyldur | 100 |

T. d. 100 X 5⅔ = 567 × 2663 = 3230.

Einhleypt fólk, sem ekki tilheyrir neinni fjölskyldu með fast heimili, mundi mega telja í öllum bygðarhlutum um 70 menn. Svo alls verður þá um 3300 Íslendingar í austurhluta af Saskachewan fylki.

Skýrsla þessi er því miður mjög ófullkomin, að eins lauslegt yfirlit yfir tölu á Íslendingum í Austur-Saskatchewan fylki. Til bráðabyrgða vil eg samt láta hana fara af stað, ef ske kynni að fólki hér í bygðunum þætti hún betri en ekkert.

Ef nokkuð verður úr því, að Þjóðræknisfélagið taki mál þetta upp á dagskrá, þá verða sundurliðaðar skýrslur samdar.

Viðvíkjandi tölu á Íslendingum í Vatnabygðum, sem gifzt hafa persónum af öðrum þjóðflokkum, get eg ekki gefið áreiðanlega skýrslu, set hér það sem eg veit um.

| | |
|---|---|
| Konur giftar og ekkjur - - - - | 22 |
| Karlmenn - - - - - - - | 6 |

Svo veit eg um þrjár systur úr Lögbergsbygð, sem eru giftar mönnum af öðrum þjóðflokkum.





## *HVERNIG HEFIR ÞESSUM ÍSLENDINGUM FARNAST BÚNAÐUR OG BUSINESS Í VATNABYGÐUM?*

---

Að vísu skortir mig sannanagögn til samanburðar, en þó freistast eg til að halda því fram, að Íslendingum hefir hvergi hepnast að ná eins fljótum og blómlegum framförum eins og í þessum bygðum.

Í mesta lagi má telja bygðirnar 15 ára gamlar. en eins og áður er sagt, voru þær þunnskipaðar fyrstu 5 árin.

Eins og saga Íslendinga hefir yfirleitt verið í þessu landi fram að síðasta áratug, fluttu hingað inn efnasnauðir, sumir félausir menn. Aftur voru nokkrir, sem fluttu inn með talsverð efni. Voru það helzt þeir menn, sem áður höfðu átt heimili í öðrum bygðum.

Lá verðmæti eigna þeirra helzt í jarðyrkju verkfærum og hestum. Stór hluti af innflytjendum voru ungir og efnilegir piltar, sem komu hingað til að nota heimilisrétt sinn. Og margir af þeim hafa sýnt, að hér var ,,land hins unga og hrausta manns".

Það er ekki tilgangur minn með línum þessum að halda því fram. að búnaður hér og fjársýsla, beri

af samkynja meðal Íslendinga í öðrum íslenzkum bygðum, þeim sem lengst eru komnar. Eg held því samt fram, að hvorttveggja þetta hér í bygðunum, þoli samanburð við það bezta hjá hinum.

Sanngjarnt er að benda á það, að innflytjendur, svona yfirleitt, fluttu með sér mikla þekkingu, bæði til yrkingar á landinu, og eins til að hagnýta mjög fullkomin jarðyrkju verkfæri.

Vöntun á þessu stóð frumbyggjunum svo tilfinnanlega fyrir framförum um margra ára skeið.

Þeir hulda hér fjársjóðu fundu í mold
það frjómagnið hafbreiðrar sléttu.
Þeir rótuðu í öllu, sem áður lá kyrt,
þeir ótrauðir hámarkið settu.
En aumingja Rauðskinnar eygð' aldrei neitt,
um aldirnar liðnar og gleymdar.
Þeir hrökluðust burtu, og hníga í strá,
en hinum vor' uppskerur geymdar.



*VIÐURKENNING.*

---

Mér finst skylda kalla að mér, að láta í ljós þakklæti og viðurkenningu til Íslendinga í Vatnabygðum, fyrir samúð þeirra og hluttöku við mig, heilsubilað gamalmenni. Þar sem eg réðist í að gefa út sögukorn, sem frá fjárhagslegu sjónarmiði má kalla ó r á ð — markaður af smáu. Þá hafa landar mínir greitt svo heiðarlega götu mína, að eg sé fram á, að eg komist fram úr að fá kostnaðinn endurgoldinn. Í bygðum þessum hefi eg selt rúm 300 eintök af ritinu, sem er langt fram yfir það, sem eg gat búist við. Verður það nálægt 65 af hundraði af fjölskyldutölu. Í Þingvalla og Lögbergs bygðum seldi eg um 40 eintök.

Þess utan má eg geta þess, að hvar sem mig bar að garði, mætti mér hlýleiki og fullkomin íslenzk gestrisni.

Ritað 4. Des. 1919.

J. H. LINDAL.

## *EFTIRMÁLI.*

---

Það hefir dregist lengur en eg bjóst við, að koma þessu smáriti út. Kostnaður við það fyrir prentun og land-uppdráttinn varð mér fast að $80.00. Verðið hefi eg sett 25c. eintakið. Vel þykir mér ganga ef fjögur hundruð seljast í Vatnabygðum, sem að frá dregnum sölulaunum mundi að eins borga kostnaðinn. Ekki get eg búist við að ritið seljist að nokkrum mun utan Vatnabygðanna.

Eg vona að hinn litli og handhægi uppdráttur yfir kjördæmið ykkar, verði öllum héraðsbúum hugðnæmur. Heima í húsinu sínu getur hver og einn séð hvar vinur hans býr, ef hann veit tölu á Section, Township og Range, þar sem heimili hans stendur.

Með beztu kveðju,

J. H. LINDAL.



